WIKIPEDIA

# Albanska

**Albanska** (*Shqip*) er tungumál sem talað er í Albaníu, en einnig í Kosóvó, Grikklandi og Norður-Makedóníu. Málnotendur eru um 6 milljónir. Greinist í 2 megin mállýskur; norður (geg) og suður (tosk), en þessar tvær greinast aftur í margar undirmállýskur sem illa skiljast sín á milli. Elstu textar frá 15. öld. Þrjú málfræðileg kyn. Óákveðni greinirinn er undansettur en sá ákveðni eftirskeyttur. Nafnorð hafa 6 föll og í sumum mállýskunum 7. Nafnorð eru sett í fleirtölu með annars vegar sjö eftirskeytum (-ë, -a,-e, -ër, -ra -t, -nj) og hins vegar þremur stofn-breytingum þar sem -a er skipt út fyrir -e, -k fyrir -q og -g fyrir gj. Lýsingarorð venjulega eftirsett líkt og í rómönskum málum og beygjast eftir kyni og tölu en ekki falli. Í spurnarsetningum er ekki snúið við orðaröð, heldur er smáorðið a sett framan við setninguna, sem verður við það að spurningu. Einu stafirnir í albanska stafrófinu sem ekki er að finna í því enska er setillu-sé og tvípunkts-e. 40 % orðaforðans tökuorð frá latínu. Ennfremur þúsundvís af tökuorðum frá tyrknesku enda albanir undirsátar tyrkjaveldis um aldir.

| Albanska<br>*Shqip* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Albanía, Kosóvó, Grikkland, Makedónía, Svartfjallaland |
| **Heimshluti** | Balkanskaginn |
| **Fjöldi málhafa** | 6.000.000 |
| **Ætt** | Indóevrópskt |
| **Albanska** | |
| **Skrifletur** | Latneskt stafróf |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Albanía<br>Kosóvó<br>Norður-Makedónía |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | sq |
| **ISO 639-2** | alb |
| **SIL** | SQI |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.

## Nokkrar setningar og orð

Fyrstu töluorðin eru: një, dy, tre, katër, pesë, gjashtë, shtatë, tetë, nëntë, dhjetë. —

| Shqip | Íslenska |
|---|---|
| Tungjatjeta | Halló |
| Mirëdita | Góðan dag |
| Si jeni? | Hvað segirðu gott? |
| Mirë | Ég segi allt gott |
| Falemenderit shumë | Takk |
| Po | Já |
| Jo | Nei |
| A flisni islandisht? | Talarðu íslensku? |
| Flas vetëm pak Shqip | Ég tala bara smá albönsku |

## Tenglar

